# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, APRÍL 1900. Nr. 2.


## Rock of Ages.

Þýðing séra Mattíasar Jokkumssonar á þeim sálmi í tveim útgáfum.

---

*1. útg. („Sam.").*

1.

Hellubjarg og borgin mín,
byrg þú mig í skjòli þín;
heilsubrunnr öld og ár
er þitt djúpa hjartasár;
þvo mig hreinan, líknai lind,
lækna mig af allri synd.

2.

Heilög boðorð, herra, þín
hefir brotið syndin mín ;
engin bót og engin tár
orka mín að grœða sár ;
ònýt verk mín, ònýt trú ;
enginn hjálpar nema þú.

3.

Til þín, guð, með tòma hönd
titrandi eg varpa önd ;
nakinn kem eg, klæddu mig,
krankr er eg, grœddu mig,
òhreinn kem eg, vei, ó vei !
væg mér, herra, deyð mig ei !

4.

Þar til æfiþrautin dvín
þar til lokast augun mín

*2. útg. („Verði ljós!").*

1.

Bjargið alda, borgin min,
byrg þú mig í skorum þín.
Gjör þitt vatni blandað blòð,
benja þinna píslarflòð,
tvöfalt lyfja læknis fljót,
lauga glœpasár mín ljót.

2.

Ekkert verk né orka mín
uppfyllt getr boðorð þín,
þótt eg ynni þúsund ár,
þótt mín sífellt rynni tár :
ónýtt starf og iðran sú ;
enginn frelsar nema þú.

3.

Titrandi með tòma hönd
til þins kross eg lyfti önd ;
nakinn kem eg, klæddu mig,
krankr er eg, grœddu mig,
òhreinn kem eg, vei, ò vei !
væg mér, herra, deyð mig ei !

4.

Þegar æfiþrautin dvín,
þegar lokast augun mín,

og eg bak við sólnasól
sé þinn mikla dómsins stól,
hellubjarg og borgin mín,
byrg þú mig í skjóli þín.

Þegar eg við sælli sól
sé þinn dóms- og veldis stól:
bjargið alda, borgin mín,
byrg mig þá í skjóli þín.

## Bókstafrinn og andinn.

Alkunnug eru þessi orð ritningarinnar: ,,Bókstafrinn deyðir, en andinn lífgar.'' Það eru ein af hinum einkennilegu, guðinnblásnu vísdómsorðum Páls postula. Hann kemr með þau í 3. kapítula síðara bréfsins til safnaðarins í Korinþuborg (6. v.). En sumir þeirra manna, sem ýmugust hafa á meginmáli kristindómsopinberunarinnar eða fastákveðinni kenning einstakra kristilegra trúaratriða, bera stundum þessi orð fyrir sig, fleygja þeim fram til stuðnings vantrú sinni eða hinum lausa trúarflögranda sínum. Og er þá auðvitað, að það kemr í algjöran bága við hugsan þá, er postulinn hefir í þau lagt á hinum tilfœrða stað.

Athugum, hvað það er, sem postulinn er um að tala, þá er hann kemst þannig að orði. Hann hafði krafizt viðrkenningar sem boðberi guðs orðs, kjörinn og útsendr af Jesú Kristi sjálfum. Og kom hann með þá kröfu með tilliti til einhverra miðr góðgjarnra manna, kristinna að vísu í orði kveðnu, en algjörlega gyðinglega hugsandi, sem köstuðu rýrð á hann og hina postullegu starfsemi hans og reyndu að vekja sundrung og flokkadrátt í söfnuði þeim, er hann hafði grundvallað í Korinþuborg. Móti þeim mönnum eða andróðri þeirra þar gegn honum er Páll að tala. Og nú bendir hann skýrt á sönnunina fyrir réttmæti postuladœmis síns. Hið kristna trúarlíf með hinum kappsama flótta burt frá syndinni og syndunum óteljandi, sem spratt svo dýrðlega upp hjá þeim safnaðarlýð,—það var fullnœgjandi sönnun í því máli. Lífernisbreytingin hjá lærisveinum hans þar eins og annarsstaðar var öllum sýnileg og áþreifanleg.—Það tíðkaðist á þeirri tíð, að þeir menn, er ferðuðust um sem trúboðar meðal kristins fólks, voru útbúnir með meðmælingarbréf frá einhverjum velþekktum kristnum söfnuði. Með því móti myndi þeir hiklaust geta fengið áheyrn hjá trúarbrœðrum sínum hvervetna. ,,Þér

eruð vort bréf" — segir postulinn við Korinþumenn—, slíkt meðmælingarbréf. Og það meðmælingarbréf hans var óendanlega meira virði en nokkuð tilsvaranda frá mönnum; því þetta meðmælingarbréf var beinlínis frá guði sjálfum, — kristindómrinn lifandi þar í söfnuðinum, sem kviknað hafði út af hans kenning. Verkleg sönnun fyrir því, að guð hafði kallað Pál til postuladœmisins og veitt honum hœfileik til að útbreiða hin sáluhjálplegu sannindi guðs ríkis. Hann er sýnilega af drottni kvaddr honum til þjónustu, en vel að merkja ekki eins og hinir gyðinglegu lögmálsþrælar til þess að vera þjónn hins gamla sáttmála, heldr hins nýja, ekki bókstafsins, heldr andans; — ,,því" —segir hann — ,,bókstafrinn deyðir, en andinn lífgar."

Nú er auðsætt, hvað þessi orð merkja í munni Páls postula á þessum stað. ,,Bókstafrinn" merkir Mósesar lögmál, ekki þó eins og það er í sjálfu sér eða samkvæmt þeirri guðlegu hugsjón, er í því liggr, heldr eins og það birtist hið ytra á steinspjöldunum eða á annan hátt í letr fœrt, lögmálið gamla, guðlega, eins og það var skilið af farísea-andanum, sem þá var ríkjandi meðal Gyðinga og undir eins vildi líka ná sér niðri meðal kristins fólks af þeim þjóðflokki. Lögmálið í þessum skilningi gjörir andlega út af við menn. ,,Bókstafrinn deyðir." En ,,andinn lífgar". Þar er átt við fagnaðarboðskapinn um Jesúm Krist, heilags anda boðskapinn, sem postulinn flutti öllum lýð. Í þeim boðskap er líf, frelsi og sáluhjálp fyrir gjörvallt syndfallið mannkynið. Jesús Kristr er hinn guðlegi lífgjafi syndugra manna. Þegar heilagr andi hefir skapað trúna á Jesúm í mannssálinni, þá er sú sama sál um leið orðin eigandi eilífs lífs. ,,Andinn lífgar."

,,Bókstafrinn deyðir, en andinn lífgar." Vér höfum séð, hvernig postulinn beitir þessum orðum. En það má viðhafa þau í víðtœkara skilningi en kemr út á yfirborðinu á þessum sérstaka stað í nýja testamentinu án þess í minnsta máta að raska hinni upphaflegu merking þeirra.—Það má fara svo með kristindóminn, að hann verði að dauðum og deyðanda bókstaf, og það hefir því miðr marg-oft verið gjört af mönnum kirkjunnar. Og það einmitt voru þeir menn að reyna til að

gjöra, sem postulinn átti í höggi við í söfnuðinum í Korinþuborg. Kristindómrinn var þeim nálega ekkert annað en áframhald af gamla gyðingdóminum. þeir trúðu því að vísu, að hinn fyrirheitni Messías væri kominn fram í persónu Jesú frá Nazaret. En það þýddi sama sem ekki neitt fyrir þá sök, að verkaréttlætishugmyndin gyðinglega var hjá þeim alráðandi, og henni samfara svo mikil fastheldni við hina ytri helgisiði forfeðranna, að með afnámi þeirra var í þeirra augum eins og allt farið. það kostaði ákaflega harða baráttu frá hálfu hins mikla andans manns, Páls postula, að leysa kristinn lýð undan ánauðaroki hins gyðinglega helgisiðalögmáls. Og hann lét lífið í þeirri baráttu sem píslarvottr drottins. En þótt málefni það hið dýrmæta, sem hann barðist fyrir, ynni frægan sigr, þá átti kirkjan kristna þó enn fyrir höndum þungar og harðar raunir út af syndsamlegri tilhneiging manna til trúarlegrar bókstafsþjónustu. Helgisiðirnir gyðinglegu flestir komu nú að vísu ekki til greina. En eins og í alla staði var eðlilegt komu nýir helgisiðir í þeirra stað upp í kirkjunni, og þegar svo búið var að lögbinda þá af hinum leiðandi mönnum kirkjunnar, þá tók brátt á því að bera, að lýðir safnaðanna fóru að gjöra þá að trúarlegum aðalatriðum. Hér var þá nýr bókstafr, sem vildi kœfa andann. Og svo sem alkunnugt er varð saga hinnar kaþólsku kirkju á miðöldunum aðallega saga um það, hvernig bókstafnum æ betr og betr tókst að deyða andann, hinum lögboðnu fyrirmælum um hina ytri hlið trúarlífsins að gjöra út af við kristindóminn hjá almenningi, eða að minnsta kosti að skaðskemma hann stórkostlega. Trúarlífið kristilega var dúðað upp með margföldum helgisiðavoðum. Og í þeim umbúðum kafnaði það sorglega víða.

En er nú nokkur hætta fyrir því, að svona löguð andleg meinsemd komi fram í vorri kirkju, kirkjunni lútersku með hinni hreinu, hábiblíulegu, evangelisku trúarjátning? Myndi nokkuð þurfa fyrir því að kvíða, að hinn kirkjulegi bókstafr hjá oss deyði anda trúarinnar? Ef enga slíka hættu væri að óttast í þessari sérstöku átt kirkjunnar, þá hefðum vér ekki hreyft þessu máli. það er enginn sá blettr til í akri kristn-

innar, að ekki geti þar verið uggvænt, að menn bindi sig of mjög við bókstafinn og andinn geti fyrir þá sök ekki notið sín.

Dr. Watson, skozki kennimaðrinn og rithöfundrinn, sem samið hefir æfisögu frelsarans, þá er nú er að koma út í *McClure's Magazine*, sýnir í því ritverki sínu fram á, að í trúarlífi Gyðinga á gamla testamentis tíðinni hafi verið tvær stefnur, sem ákaflega mikið hafi borið á. Annarri stefnunni réðu prestarnir, þeir menn, sem til þess voru kvaddir að halda uppi hinum lögboðnu helgisiðum; en hinni stefnunni réðu spámennirnir, þeir menn, er guð sjálfr á hinum ýmsu tíðum uppvakti til þess að flytja hinum útvalda lýð sínum nýjan og nýjan boðskap og knýja almenning til marg-endrtekins aftrhvarfs. Prestsembættið var eigi síðr guðlegs uppruna en embætti spámannanna. Það hlutverk, sem prestunum var á hendr falið, var að sjálfsögðu heilagt og með öllu ómissanda. En það eitt út af fyrir sig fullnœgði ekki trúarlífsþörfinni. Mönnum var enn meiri þörf á því, að kostgæfilega væri vakað yfir hinni innri hlið trúarlífs þeirra en hinni ytri. Og það var einmitt það, sem spámennirnir gjörðu. Vitanlega voru nú margir af Ísraels-prestunum sann-guðhræddir menn, sem vissu, að gagnslaust var, að fólk gætti hins fyrirsetta helgisiðalögmáls, ef það sama fólk ekki gæfi guði hjarta sitt, vissu og héldu því fram, að allt væri ónýtt, ef lögmálshaldið ekki næði til hins innra manns. Og eigi síðr er það kunnugt, að til voru falsspámenn í Ísrael, sem þóttust hafa guðs anda, en höfðu ekki, og leiddu því almenning í villu og voða, að því leyti, sem þeir með boðskap sínum náðu haldi á hjarta tilheyrenda sinna. En hitt er eins satt fyrir því, að yfir höfuð að tala var trúarlífsstefna sú, er prestarnir réðu, aftrhaldandi, þar sem spámennirnir aftr á móti heimtuðu lifandi framsókn, — þeirra stefna áreiðanlega í heilsusamlega, guði velþóknanlega framfaraátt. Annars vegar bókstafrinn, hins vegar andinn ,,Hlýðni er betri en fórn.'' Svo mælti andinn fyrir munn Samúels gegn Sál konungi, sem vildi láta hrœsnisfulla bókstafsþjónustu duga synd sinni til afsökunar. ,,Þú hefir enga vild á fórnum''— segir Davíð í hinum mikla iðrunarsálmi við guð —; ,,annars myndi eg greiða þér þær'', en ,,harmþrungið og sundr marið

hjarta munt þú, ó, guð, ekki fyrirlíta." Hvergi í gamla testamentinu er þó eins hátíðlega og sterklega mótmælt hinni dauðu trú fólksins á hina ytri helgisiði þeirrar tíðar, bókstafsþjónustunni, eins og hjá Esajasi spámanni, einkum í fyrsta kapítula bókar hans. En þrátt fyrir þær marg-endrteknu mótmæla-raddir varð þó bókstafrinn á endanum algjörlega ofan á í þjóðlífi Gyðinga. Raddir spámannanna þögnuðu. Andinn var deyddr. Á tímamótum gamla og nýja testamentisins birtist Jóhannes skírari, fyrirrennari frelsarans, hrópandi í eyðimörkinni í anda hinna gömlu spámanna gegn siðaspillingunni og hrœsninni. En í annan stað eru farísear á þeirri tíð nálega alráðandi í trúarmálum þjóðarinnar, einmitt þá í sínum algleymingi; og þegar Jóhannes er fallinn, kasta þeir sér sem talsmenn bókstafsins út í œðisgengna baráttu á móti Jesú Kristi sjálfum. Út í dauðann ofsœkja þeir hann, hrinda honum út í kvalir krossfestingardauðans. Og á þann hátt deyðir hin útvalda þjóð guðs sjálfa sig.

En sleppum Gyðingum, og hugsum um oss — í því skyni að varna því, að bókstafsþjónustan verði ofan á í kirkju vorri, að bókstafrinn deyði andann hjá oss.

Vér leyfum oss að benda á fáein atriði þessu máli viðkomandi. Eitt er það, hvernig börnunum eru kennd frœði kristinnar trúar. Á því er enginn vafi, að við þann lærdóm er mjög iðulega beitt ramm-skakkri aðferð. Gamli siðrinn er sá, að láta börnin læra utan að ,,kverið'', svo að þau geti lesið það upp úr sér reiprennandi spjaldanna á milli. Þetta er ákaflega mikið minnisverk, fyrir marga unglinga herfileg ofraun. En það, sem þó er lang-verst við svona lagaða frœðakennslu, er það, að vanalega er stór-mikill hluti kversins ,,lærðr'' áðr en börnin skilja neitt verulega í því máli. Og svo verðr þetta, sem þannig er troðið inn í minnið, eftir á beinlínis því til hindrunar, að skilningrinn geti komizt þar að, og þar með þá einnig því til hindrunar, að það geti orðið eign hjartans. Það er eins og börnin hafi þar lært jafn-mikið frœðamál á útlendri tungu, sem þau skilja ekkert í. Og er ekki mikið að furða sig á því, þótt flestum börnum þyki þessi lærdómr öllu öðru námi leiðinlegri. Með þessu móti hafa og

eflaust eigi fáir menn af vorri þjóð beinlínis verið fældir frá kristindóminum meðan þeir voru á ungum aldri. Bókstafrinn hefir hér deytt andann. Og bókstafrinn er hér stöðugt að deyða andann.—Hugsum oss, að tekið væri upp á því á vorri tíð að láta unglinga í skólum landsins og landanna læra utan að orði til orðs heilar kennslubækr í mannkynssögu, landafrœði, reikningi o. s. frv. Og myndi öllum undir eins skiljast, hve hróplega heimskuleg sú aðferð væri. En það er þó einmitt sama vitlausa aðferðin, sem svo títt er beitt innan kirkju vorrar við nám kristinna frœða, og þá sjá margir ekkert öfugt við aðferðina, heldr þvert á móti telja hana alveg sjálfsagða. — Það getr að vísu verið gott, að unglingar læri margt utan að í kennslubókum þeim, sem þeim eru í hendr fengnar, en þó því að eins, að þeir áðr hafi skilið það til hlítar. Annars verðr það ekki annað en bókstafr, sem deyðir andann. Og er þá auðsætt, að kristindómskennsla sú, er börnum er veitt, má ekki, eins og enn vill oft verða hjá oss, aðallega vera fólgin í því, að börnunum sé „hlýtt yfir" utan að lærðar lexíur, hvorki í „kverinu" né öðrum bókum.

Á ferminguna í kirkju vorri er og vert að minnast í þessu sambandi. Sá helgisiðr var í núveranda formi hjá þjóð vorri inn leiddr skömmu fyrir miðja 18. öldina og varð kirkjulífinu þá til ómetanlegrar blessunar. En eftir því, sem tímar liðu fram, fóru menn að misskilja hann háskalega. Fermingin kastaði í meðvitund almennings rýrð á sakrament skírnarinnar, sem þó var mjög fjarri hinum upprunalega tilgangi hennar. Menn fóru að leggja langtum of mikla áherzlu á hið fyrirskipaða frœðanám í sambandi við þann kirkjulega helgisið, og svo var farið að líta aðallega á ferminguna sem próf, nokkurskonar skólapróf, í hinum kristilega barnalærdómi. En það leiddi aftr til þess, að sorglega margir unglingar töldu sig með fermingunni hafa útskrifazt úr skóla trúarinnar, í stað þess, eins og hefði átt að vera, að telja sig þá innskrifaða í þann skóla. Svona fór það í þjóðkirkjunni á Íslandi, og mikið vantar á það, að fólk vort í hinni frjálsu kirkju hér hafi enn þá vaxið trúarlega út úr þessum ömurlega misskilningi. En þar alls-

staðar, sem þessi misskilningr er ráðandi, er fermingin bókstafr, sem deyðir andann.

Og loks viljum vér minna á hinar kirkjulegu seremoníur yfir höfuð. Hver kristin kirkjudeild út af fyrir sig hefir sínar sérstöku seremoníur, þótt miklu margbrotnari sé þær í sumum kirkjudeildum en öðrum. Seremoníurnar eru hið ýmislega ytra form, sem trúarlífið í kirkjunni eða guðsþjónusta safnaðanna birtist í. Slíkt form er eðlilegt og nauðsynlegt. En vandlega er þess þó ávallt að gæta, að það verði kirkjunnar lýð ekki að aðalatriði trúarinnar. En það er það, sem það vill einmitt verða. Og í þessu efni þurfum vér vandlega að gæta vor. Það sýnist á þessum tíma vera býsna sterk tilhneiging í ýmsum áttum kirkjunnar til þess, ef ekki að gjöra seremoníurnar að aðalatriði, þá samt að miklu meira atriði en góðu hófi gegnir. Jafnvel hjá *General Council*-mönnum, þeirri deild lútersku kirkjunnar, sem vér helzt viljum taka oss til fyrirmyndar, gætir þessarar tilhneigingar all-mjög. Og þurfum vér þá því fremr hér að vera á vaðbergi, svo framarlega sem vér viljum varna því, að bókstafrinn verði hjá oss ofan á og deyði andann, hinn sanna, frjálsa anda trúarinnar

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

IX.

Í byrjun Septembermánaðar fór eg að heiman og úr norðrlandi. Í Júlímánuði hafði tíð verið sérlega góð, og mun eg lengi minnast hinnar íslenzku sumarblíðu. Eg, sem illa þoli hinn minnsta kuldagust að sumrinu hér í landi hitanna og veðrblíðunnar, gat, mér að skaðlausu, lagt mig fyrir úti í sólskinsbrekkunum á Íslandi, verið daglangt á ferð í úrfelli og vöknað til muna. Loftslagið hlýtr að eiga þátt í slíkum mun.— En með Ágúst fór að kólna og verða haustlegra útlit. Fyrir norðan land fór sjór að verða ókyrr, nálega aldrei alveg brimlaust, þó logn væri á landi. Öldugnauðið minnti mig dag og nótt á hina óumflýjanlegu burtför mína—táknaði ókyrrð lífsins. Oft snjóaði til fjalla, enda var úrkoma nærfellt daglega

frá miðjum Ágústmán. og til Septemberloka, er eg fór frá Íslandi. 23. Ágúst gjörði þá voða-hríð um norðrland, að þar sem eg dvaldi stóð allr fénaðr, er heima var, inni í húsi. Á sjó urðu þá mannskaðar til muna og skiptjón. Eg undi mér ekki eins vel við Ísland eftir þann dag, meðfram af því, að eg hlaut að hverfa á brott svo langa leið. Enda fannst mér þennan 23. Ágúst eg virkilega vera í jötunheimum, en ekki um miðsumar í foreldrahúsum á föðurlandi mínu. — Það eru vitanlega víðar hamfarir í náttúrunni en við Ísland, en þar getr maðr búizt við stöðugum berserksgangi á henni. Það er ekki annað eins logn yfir náttúru Íslands eins og mér virtist hvíla yfir andlega lífinu þar. Um það blæs ekki mikið kristilegt hvítasunnuveðr að minnsta kosti, — hvað sem segja má um andlega *felli*bylji.

Eg hafði ákveðið, að sjá meðal annars Gullfoss í Hvítá, Geysi og séra Valdemar Briem. Vildi eg því fara Kjalveg suðr í Biskupstungur, kanna ókunna stigu og sjá stöðvar Fjalla-Eyvindar og míns gamla sveitunga Grettis. Sá vegr hefir fremr lítið verið farinn á þessari öld,—lagðist mjög niðr eftir að Reynistaðar-brœðr urðu úti á þeirri leið haustið 1780. Foreldri mín lögðu því blátt bann fyrir, að eg gengi þannig í „tröllahendr“ svo seint á sumri; því einatt er ófœr hríð til fjalla, þótt gott veðr sé í sveit. Svo eg fór sveitir suðr og með mér Sigurðr, eldri bróðir minn, og Hermann Jónasson, fyrr skólastjóri að Hólum í Hjaltadal. Áðr en eg fœri kvaddi eg ekki að eins þá náunga mína og vini, er eg náði til, heldr og þá staði, þar sem eg eyddi œskudögum mínum. —Þá skildi eg það, að eg held, hvers vegna Gunnar sneri aftr og kaus heldr að falla á Íslandi en lifa útlagi í útlöndum.

Í miðri Húnavatnssýslu er einn mjög einkennilegr sögustaðr, er eg kvaddi með virktum: Borgarvirki í Víðidal. Frásagan fagra um vörn Víga-Barða frá Ásbjarnarnesi—bœnum, þar sem eg er upp alinn—í þessu náttúru-virki, gegn Borgfirðingum, er vafalaust flestum í fersku minni. En mér fannst þessi staðr virki í öðrum skilningi. Það er engu líkara en þessi staðr skyldi vera prédikunarstóll, en sýslan væri kirkjan. En þó eg stœði í honum, þessum guði gjörða prédikunarstól,

og væri að hugsa um þetta — hugsa um prédikunarstólana og kirkjuna sem virki Íslands, og svo þennan forna ófriðarstað sem andlegan griðastað,—þá gat eg þó ekkert af því látið til mín heyra, kom ekki upp orði, hversu mjög sem eg þráði það, að geta ávarpað sýslubúa og vini mína þaðan. Eg hafði flutt fimm prédikanir í sýslunni og fólkið tekið erindi mínu, eins og líka sjálfum mér, með mesta kærleika, bæði prestar og söfnuðir, en nú fannst mér allt ósagt og allt óbeðið. Mér fannst eg aldrei hafa unnað œskustöðvunum, Íslandi og fólkinu, sem eg var að kveðja, að líkindum í síðasta skifti, eins og þá. Eg þekkti fjöllin, gilin, árnar, lœkina, vötnin—allt. Allt voru þetta óbreyttir œskuvinir mínir,—hinir einu, sem ekkert höfðu breytzt, því jafnvel foreldri og systkini taka breytingum, þó hugarþelið og kærleikinn sé minnstri breyting háð. Og eg þekkti fólkið, þess stríð, þarfir og hættur, alla baráttu nútíðarinnar á Íslandi, sem Borgarvirki og Heiðarvígin minna á.—En eitt er mest og varanlegast—, þetta, sem eg nefndi og sízt breytist, en sigrar: kærleikrinn. Og þó hann sé veikr, ófullkominn og eigingjarn hjá oss mönnunum, er hann þó sterkasta aflið í oss. Það hlýtr hvert barn að finna, sem á þess kost, að sjá aftr föðurland sitt og frændr sína. Eg er þá líka að vona það og trúa því, að kærleikrinn verði varanlegasta og mesta aflið úti á Íslandi, sterkara en fossarnir, hærra en fjöllin, fastara en virkin, og umfaðmi allt og alla eins og hafið eyland vort,—að prédikun kristindóms og kirkjan verði þar virkið.

Mér finnst eg hljóti að geta hér smá-atviks í sambandi við Borgarvirki og hina nýju vísinda-öld, sem þjóð vor skoðar sig lifa á. Rétt á undan mér hafði komið í virkið, á vísindalegri rannsóknarferð, danskr ferðamaðr, Bruun kapteinn, sem blöðin hafa að góðu getið. Hann hafði grafið upp á einum stað um þrjá þuml. af mosalagi ofan að grjóturð hið innra í virkinu og eitthvað mælt stœrð þess. Bæði gætti eg nákvæmlega vegsummerkja og átti tal við leiðsögumann hans frá næsta bœ. Gat eg þess til við einhvern, að á þessari rannsókn myndi, ef til vill, byggð löng og fróðleg bók, ,,vísindaritgjörð" og vísindaleg frægð. Man eg ekki betr en að sá

spádómr sé kominn fram, og nú eigi mynd og lýsing af þessum virkisstað að verða á Parísar-sýningunni. Eg er alveg viss um það, að sumir vorir „vísindamenn“ og gagnrýnendr myndi skopast að slíkum vísindarannsóknum, ef þær væri gjörðar í nafni guðs orðs og trúarinnar. Þœtti víst einhverjum þetta ekki djúpt grafið fyrir hornsteinum kirkjunnar og kristindómsins.—En fyrir öndvegissúlum nýrra vísinda- og heimsspekisályktana og nýrrar frægðar þarf ekki ávallt dýpra að grafa.

Manni koma hér ósjálfrátt í hug, á mjög alvarlegan hátt, orð, sem stundum eru í spaugi höfð eftir einum „ofvitanum“ (Sölva Helgasyui) á Íslandi: „Drottinn veit mér meira af þinni speki, en ekki af heimsspeki, því eg hefi nóg af henni.“

Mér sýnast óteljandi ástœður fyrir því, að öll íslenzka þjóðin ætti í djúpri og hjartanlegri alvöru að gjöra þetta að sinni almennu bœn.

Þegar eg hafði yfirgefið foreldra mína og náunga, hraðaði eg mjög ferð minni suðr. Mátti heita, að farið væri á sólarhring frá Lœkjamóti í Víðidal suðr í Borgarnes á Mýrum — og það að haustdegi í óveðri. Eg hlaut að hraða þannig ferð minni og hætta við að fara vestr í Dalasýslu, bæði vegna rigninga og einnig til að ná í gufubát frá Borgarnesi til Reykjavíkr. — Fór eg því á mis við að sjá ýmsa, er eg hafði ásett mér að finna, og bið eg þá alla hér með afsökunar á því.—Eg átti bágt með að fara frá foreldrum og systkinum fyrr en í síðustu lög, og þess gjalda margir fornkunningjar, sem eg ætlaði að heimsœkja, en fyrirgefa mér vafalaust, er þeir vita ástœðuna. Fyrir sömu ástœðu varð dvöl mín í Reykjavík jafn-stutt og hún varð.

Eins hlýt eg nú að fella margt úr þessum ferðapistli, er eg vildi gjarnan segja, — og ef til vill segja aftr það eitt, er aðrir vildi ekki láta mig segja.

Svo margir verða nú til að lýsa náttúru Íslands, vegum og veðrátt, að eg hleyp hér yfir þann kafla, þó mér þœtti margt í frásögur færanda, er eg sá, — margr dalr, fjörðr, mörg heiði og margt hraun einkennilegt og fagurt. Einkum þótti mér Norðrárdalr og Borgaifjarðar-héruðin fögur ag óvenjulega björguleg. En þrátt fyrir stór-miklar framfarir í húsa-

byggingum og fleira, er að hinu ytra lýtr, sem eg sá hvar sem eg fór um, sá eg víst hvergi meiri atorku vott hjá einum íslenzkum bónda en hjá bóndanum í Sveinatungu í Norðrárdal. Og þó býr hann norðr undir heiði, óraveg frá öllum kaupstöðum.—Mig stórfurðaði á framkvæmdum þess manns. —Mér fannst hann hljóta að vera amerikanskr, ef ekki að ætt, þá að uppeldi og atorku. Og eg þori að segja, að það væri ekkert óráð fyrir Ísland og ástand þess, þó íslenzkir bœndr og amerikanskir hefði jarðakaup við og við. — Dugnaðrinn og hagsýnin ameríkanska gæti líka búið sómasamlega víða á Íslandi og hagnýtt mörg ónotuð landgœði,—fyndi víðar ,,fé í jörðu'', afl í fossum og auð í fjöllum en nú finna þar frændr vorir, landsmenn sjálfir. Það ætti engum að dyljast, að Íslendingar þurfa að læra að fiska og búa, að læra að vinna og lifa, að læra meðferð verzlunarmála og kirkjumála, af útlendum framfara-þjóðum, hvort sem það nú eru Englendingar eða Ameríkumenn.

Í Borgarnesi beið eg gufubátsins nálega tvo daga. En sú bið varð mér ekki löng, bæði fyrir samfylgdina, gestrisni Helga kaupmanns Jónssonar og fyrir viðkynning mína við Harald guðfrœðing Níelsson og prófast Mýramanna, séra Einar Friðgeirsson að Borg. Fyrir norðan átti eg þegar vini meðal prestanna, er eg fann. Og hér bœttist við þann vinahóp. Séra Einar er fróðr maðr, eldfjörugr og einkar skýr og skarpr. Þótti mér gott að kynnast honum. Síðar kom hann til Reykjavíkr, meðan eg dvaldi þar, og endrnýjuðum við þar kunningskap okkar.—Fleiri presta Mýramanna sá eg einnig í svip á þessari ferð.

Um Harald Níelsson má eg til með að segja sem minnst, til að segja ekki of mikið,—svo mjög fannst mér til hans koma. Einar Hjörleifsson sagði mér af honum fyrstr manna, og reyndi eg hér sem oftar, hve sérlega réttorðr og réttdœmr sá góðvinr vor jafnan er, umfram flesta eða alla aðra nútíðar-Íslendinga. Getr vel verið, að hann þyki ekki mikill fornfrœðingr—þar heima. Eg held það sé rétt, að hann hafi ekki dagað uppi og orðið að steini eða drang, þegar loks dagaði og sól skein á tinda, eins og sum andlegu tröllin vor. En hann

er meira en fornfrœðingr, jafn-mikið og það kann að vera; hann er nútíðar-frœðingr,—skilr menn og málefni samtíðar sinnar öðrum fremr,—les rúnirnar á hinum hrynjanda hallarvegg nútíðarmenningarinnar íslenzku — líkt og Daníel forðum í Babýlon. Og það var hann, sem sýndi mér þennan unga efnismann, er eg nú kynntist. Borg og Borgar-sagan, Borgarfjörðr og sögustaðirnir mörgu og frægu, trölldómr Skallagríms og kveðskapr Egils, sem prófastrinn með þekking sinni — *fjölkynngi* lá mér við að segja—var að vekja upp í huga mér, hvarf og gleymdist. Það varð ekkert úr þeim „seið", þegar Haraldr kom til sögunnar með sitt „krossmark"—sinn mikla kristindómsáhuga og heitu, evangelisku trú. Eg gleymdi því öllu og varð einn eftir hjá þessum unga kappa kirkjunnar á Íslandi, er svo mjög þarfnast hans og margra slíkra sem hann er, og eg fann, að hér var gott að vera. — Eg er ekki alveg viss um, að Gunnlaugr og Helga hafi unað sér mikið betr saman en við gjörðum þá,—þó eg biðji fyrirgefningar á að segja hér frá því.—Upp frá þessari samverutíð var hann mér „tryggari en bróðir", og vorum við flestum stundum saman, er við gátum, unz eg hvarf til útlanda, ef til vill til að falla í einvígi lífsins eins og Gunnlaugr forðum og sjá hvorki hann né Ísland framar.

Haraldr Níelsson er ungr maðr og óvígðr enn. Sem stendr er hann í þjónustu biblíufélagsins við þýðing gamla testamentisins. Fæst hann þar einn við óvenjulega ervitt verk, sem jafnan er ætlað mörgum guðfrœðingum. Raunar les þriggja manna nefnd þýðinguna yfir með honum. En aðal-verkið hvílir á hans herðum. Í ár hefir hann dvalið erlendis, á Þýzkalandi, í Danmörk og á Englandi, til að búa sig sem bezt undir þetta þýðingarmikla starf, sem hlýtr að taka mörg ár. Sem kunnugt er styðr hann mjög kirkjumálastefnu séra Jóns Helgasonar og gefr út „Verði ljós!" ásamt honum. Ekki liggr mikið af ritstörfum enn eftir Harald Níelsson, fyrir utan biblíuþýðinguna og ritdóma hans um „Aldamót", sem ekki er von; en í öllu, sem hann hefir ritað, kennir nýrra hlýinda og hœfileika. Hjá honum kemr fram hinn andlegi golfstraumr, sem íslenzkt kirkjulíf mun, með guðs

náð, þíða úr fönn.—Andi hans er engin norðanátt, sem svo mikið er af á Íslandi, heldr sunnanátt,—ef mér fyrirgefst það orðatiltœki. Og í landi kuldans, snjóanna og skriðjöklanna þarf hennar sannarlega með. Kirkjufélag Vestr-Íslendinga á víst fáa eða enga betri vini heima en hann, þó vinum þess fjölgi gleðilega með hverju ári, sem líðr.

## Athugasemdir út af trúarljóðum.

,,Tímaskiftasálmr'' sá eftir séra Mattías Jokkumsson, sem ,,Verði ljós!'' kemr með í Janúar-blaði sínu (,,Ó, drottinn, drottinn, öld af öld''), er fyrir langa-löngu áðr kominn út í ,,Sameiningunni'' (September-blaðinu frá 1890). Um það hefði verið réttara að geta, er sálmrinn nú var endrprentaðr, eins og líka um það, að hann er orktr í sambandi við þúsund ára þjóðhátíð Eyfirðinga. En líklega hefir bæði höfundr sálmsins og ritstjóri ,,V. l.-s'' verið búinn að gleyma því, að sálmr þessi hafði áðr birzt á prenti. Talsverðr orðamunr er í hinum tveim sálmsútgáfum. En eins og hann birtist í ,,V. l.'' vantar í hann eitt vers, sem alls ekki má missast, þegar að því er gætt, að meginhugsanirnar í 90. Davíðs sálmi eiga þar allar að koma út. Það er þetta vers, sem einmitt á svo mæta-vel við styrjaldartímann sérstaka, er nú stendr yfir í mannkynssögunni:

,,Ef sjötíu' ár í dauðans dal
vér dveljum, vel má haga;
úr blóði skráð um víg og val,
ó, veröld, er þín saga;
þú lærir seint það tímatal
að telja þína daga.''

Séra Mattías hefir í seinni tíð látið fleiri ljóð frá sér til prentunar án þess að muna, hvernig á þeim hefir staðið. Þannig kom í síðustu ,,Aldamótum'' kvæðið *Ambátt drottins* (,,Í eyrum heyrir óminn'' o. s. frv.), sem þar er beinlínis sagt að sé eftir séra Mattías. Og auðvitað hefir ritstjóri ,,Aldamóta'', séra Friðrik Bergmann, tekið við kvæði því sem frumorktu af séra Mattíasi. En það er að eins þýðing eftir hann. Kvæðið er frumorkt á þýzku af Karl Gerok og stendr í trúar-

ljóðasafni hans, því er ,,Pálmablöð" nefnist. Þar varð það fyrir oss nú fyrir skömmu, og hefðum vér átt að vera búnir að taka eftir því löngu áðr.

Sálmrinn eftir séra Valdemar Briem í Febrúar-blaði ,,Sam." (,,Ekki eg þekkti minn frelsarann fríða") var áðr prentaðr í ,,Verði ljós!" (í Apríl-blaði síðastliðins árs). Ekki tókum vér þó sálminn þaðan í blað vort, heldr eftir handriti séra Valdemars sjálfs, sem vér fengum frá honum í fyrra úti á Íslandi. Gættum vér ekki að því fyrr en sálmrinn var út kominn í ,,Sam.", að hann var áðr prentaðr. Annars hefðum vér getið þessa í sama blaðinu. En með þessari endrprentan sálmsins er leiðrétt villa ein, sem slœðzt hefir inn í útgáfu hans í ,,Verði ljós!". Það er í 4. versinu, í annarri línu þess. Sú lína hljóðar í ,,V. l." svo: ,,grátinn er stundi eg sekt mína fram", sem með engu móti getr staðizt, þegar gætt er að fjórðu línu versins með hinni samrímdu hending eftir því, sem til er ætlazt; ,,líknarvon enga þó setti' eg á hann." Fyrri línan á að vera: ,,grátinn er stundi' eg og sekt mína fann." Og þannig er þetta prentað í ,,Sam."

Í nýkomnu Marz-blaði af ,,Verði ljós!" birtist hinn frægi enski sálmr *Rock of Ages* eftir Toplady í íslenzkum búningi. Séra Mattías Jokkumsson er þýðandinn. En þetta er þó að eins ný útgáfa, talsvert umsteypt, af þeirri þýðing sálmsins, sem vér fyrir langa-löngu fengum frá séra Mattíasi og létum prenta árið 1893 í ,,Sam" (VIII, 8).

Á uppruna frumsálmsins enska stendr svo, að höfundrinn, er hann eitt sinn var á ferð á Englandi, varð fyrir þrumuskúr einni voðalegri, og skundaði hann þá inn í klettskúta einn nálægt veginum til þess að hýrast þar óhrakinn og óhultr meðan skúrin gengi yfir. Út af þessu atviki orkti hann svo sálminn. Og hefir hann með sálminum gjört blettinn í náttúrunni, sem varð honum að sannkölluðu sæluhúsi, að ógleymanlegum helgistað. En hinn biblíulegi uppruni sálmsins er Esaj. 26, 4, þar sem svo stóð áðr í ensku biblíunni: *for in the Lord Jehovah is the R o c k o f A g e s.* Seinustu orðum þessa málsgreinarparts hefir síðan verið breytt í *an everlasting rock.* Og í íslenzku biblíunni stendr svo á þessum stað: ,,því guð drottinn er eilíft bjarg." En tveir aðrir staðir í gamla testamentinu hafa vafalaust einnig vakað fyrir höfundi sálmsins: 2. Mós. 33, 22 (,,En þegar mín dýrð fer fram hjá, vil eg láta þig standa í bergskorunni, og mun eg byrgja þig með hendi minni unz eg em kominn fram hjá"—orð drottins til Mósesar við Sínaí) og 1. Kg. 19, 11 (,,Og þegar Elía heyrði það, byrgði hann andlitið með möttli sínum og gekk út, fram

í hellismynnið“—hjá Hóreb, er hann þar hafði heyrt orð drottins til sín).

Hinar tvær útgáfur af þýðing séra Mattíasar á sálmi þessum, þá er „Sam.“ kom með 1893, og þá er nú stendr í „Verði ljós!“, leggjum vér nú fremst í þessu blaði fram fyrir lesendr vora. Og geta menn þá dœmt um, hvor er heppilegri og fullkomnari. En hér kemr frumsálmrinn enski til samanburðar eins og hann er í *Church Book* „General Council“-manna frá 1891. Annars er dálítill orðamunr í ýmsum útgáfum af sálminum.

Rock of Ages, cleft for me!
Let me hide myself in Thee;
Let the Water and the Blood,
From Thy riven side which flowed,
Be of sin the perfect cure,
Save me, Lord, and make me pure.

Not the labors of my hands
Can fulfill Thy Law's demands;
Could my zeal no respite know,
Could my tears for ever flow,
All for sin could not atone;
Thou must save, and Thou alone.

Nothing in my hand I bring,
Simply to Thy cross I cling,
Naked, come to Thee for dress;
Helpless, look to Thee for grace;
Foul, I to the Fountain fly;
Wash me, Saviour, or I die!

While I draw this fleeting breath,
When my eyelids close in death,
When I soar to worlds unknown,
See Thee on Thy judgment throne,
Rock of Ages, cleft for me!
Let me hide myself in Thee.